{Þeirra íslendsku evangelisku Smárita Nr. 64.}

# Ræda

flutt þann 31ta October 1830, í endurminníngu þeirrar Augsburgisku Trúarjátníngar.

---

Textinn, Matth. 10, 32. 33.

Hvør hann medkénnir mig fyrir mønnunum, þann vil eg medkénna fyrir mínum himnesta Fødur. En hvør hann afneitar mér fyrir mønnunum, þeim vil eg afneita fyrir mínum himnésta Fødur.

## Bæn fyrir prédikun.

Í þínu nafni, ó Drottinn Gud, himins og jardar Einvalds-konúngur! erum vér, þitt fólk, hér samansafnadir, á þessari, af þér oss léntu, nádarstundu, til ad lofa þig og vegsama; ad sonnu fyrir allt þad góda, sem þú oss til lífs og sálar veitt hefir, en þó sérílagi fyrir þad, (sem þú aldrei verdur af oss fullófadur og vegsamadur fyrir), ad þú hefur unnt oss ad fædast þar og uppalast í þessum heimi, hvar þitt heilaga ord prédikad er hreint og ómeingad, og þaug háverdugu Sacrament tídkud eptir þíns sonar Jesú Christí innsetníngu. Já, hvad meira er, ó Drottinn! ad þú hefur látid þann heilaga brunn þess lifanda vatns, þá heil. Ritníngu — úr hvørri ad straumar Evangelii framfljóta — vera einn

friann og opinn brunn vor á medal, já líka sem grafid hann í hvörju húsi, ollum þeim til reidu, sem af hon- um vilja, sér til sálarsvolunar, lífsins vatn drecka. Þú lætur þar á ofan ydugliga, já rétt óaflátanliga, kalla oss og áfýsa ad koma til þessa blessada brunns, og bergja, af hans fyllingu, himneska gjøf heilags anda og krapt eptirkomandi aldar. O Drottinn! hvörsu lucku- ligri erum vér þúsund morgum ødrum Adamsbornum í heimi þessum, sem sitja rétt sem vid hafsmynni eylífs dauda, og inndrecka dagliga þad eitur, sem ordid gétur þeim ad ólæknanligri sálar ólífsjun. Hvad hofum vér, ó Herra! til þessa unnid framar ødrum? alls eckért! alls eckért! En þess vandara er oss, sem þú hefur betur vid oss giørdt. Æ, hvørsu hofum vér þá notad oss þessa þína velgjørnínga? hofum vér þá þegid þessa þína nádar ádryckju med þacklæti réttiliga? Æ! því midur Drottinn minn og Gud minn! Margann medal vor rétt sem velgir vid vatni því, sem frá ádurnefndum lífsins brunni kémur, (af því þad er svo smeckdauft, já rétt sem ramt, fyrir góm þess gamla Adams); og þeir drecka því lángt heldur af daudans uppsprettu, (hvørja Satan sykrar med holdsins vellyst) já drecka af henni sér til eilífs ólífis. Æ endurvitka þessa vitfyrringa, hellagi Fadir! og vertú oss ei svo reidur, þeirra vegna — þó þad makligt væri — ad þú byrgir fyrir oss aptur lífsins blessada brunn. Þessa brunns lífskroptugasta vatnsæd uppspratt, fyrir rúmum 18 hundrud árum, í Bethlehem Ephrata, Davíds borg, á Gydíngalandi, hvørja þú sídan raudlitadir med Lambsins blódi, þegar þú slóst, med sprota þínnar reidi á helluna, ecki í Horeb, heldur á Golgatha. Þessi hella hefur oss, sem andligum Israel,

eptirfylgt, allt út til ytstu endimarka veraldarinnar; oss, sem búum hér, líka sem á útkjálka hennar. Lofadur vert þú, Drottinn! vér gétum ogsvo hér druckid af þessari hjálprædis hellu! Lækirnir frá henni slóa ríkugliga út á medal vor! og, hvorsu mörg ein Guds saudarkynd hefur geingid, sem í grænum grashaga Guds nádar, kríngum læki þessa, og druckid af þeim svölun í sólarhitanum, og endurlifgun í andkofum freistínga og daudans. Brunnur þessi og lækir hans voru fyrst um hríd hreint byrgdir fyrir forfedrum vorum; og sídan, þegar nockrir lækir frá honum leiddust híngad, urdu þeir allt of leingi, — já meir enn í heil 500 ár — svo meinblandadir, med eitrudu manna lærdóms saurvatni, ad mestu adgiætslu þurfti vid ad hafa, ad drecka ecki í sig daudann fyrir lífid. En eilífliga vegsamadur vertú, himneski Fadir! ad þú hefur af nád þinni sorgad fyrir, ad þessi brunnur er nú ecki ad eins opinn fyrir oss öllum, heldur lækirnir út frá honum flestir svo hreinsadir, ad óhætt er af ad drecka. Nú hefur konúngur vor hinn jardneski skipad oss undirsátum þínum og sínum ad þacka þér opinberliga fyrir, ad lækur sá, sem sanntrúadir og upplýstir menn veittu út frá brunni þessum, fyrir 300 árum, til vor, er svo hreinn og tær sem brunnsins edli svarar, og leidir oss ad honum med beinni og óhultri stefnu. Fyrir læk þennann skil eg þá dýrmætu Augsburgisku Trúarjátníngu, sem frá brunni heil. Ritníngar útleidd er.

Æ, eilífi Gud og Fadir! lofadur vertú fyrir þennann hreina vatns-straum, og lát sérvitríngum og sjálfbyrgíngum veraldarinnar aldrei takast ad villa oss burtu frá honum, en allrasídst ad byrgja sjálfann adal-brunninn

fyrir oss. Gef oss nú, fyrir þinn anda, náð til að gánga svo með þessum læk til uppsprettunnar í dag, að vèr finnum hvörsu vatnið í báðum líkt er, og verðum svo, með því að drecka af því, uppfylltir heilagri drift: að viðurkénna þinn eingétinn son Jesúm Christum, að vera vorn sannann Guð og einasta Meðalgángara; viðurkénna þetta með hjarta, orðum og verkum, fyrir þèr, fyrir einglum og mönnum, vondum og góðum, stöðugliga, allt til dauðans! Bænheyr oss hèr um, blessaði Faðir! í nafni þessa þíns elskuliga Sonar! Amen!

## Inngángurinn.

Nú eru, kjæru Tilheyrendur! 13 ár liðin síðan, að vor jarðneski konúngur bauð oss, undirsátum sínum, að gjalda himins og jarðar konúngi opinbert og hátíðligt þakklæti í söfnuðunum, fyrir þá ómetanligu velgjörð: að hann, fyrir þá rèttum 300 árum liðnum, uppvakið hafði menn þá, er, í anda og krapti Elíæ, hreinsuðu trúarbrögð vor frá súrdeigi páfadómsins, og leiddu menn að þeim rètta sannleikans uppsprettubrunni heil. Ritníngu, og ráðlögðu að skúfa öllum þeim lærdómum, í trúarinnar sökum, sem mótstríddu henni, annaðhvört með að vana, vasla eður auka við hennar kénníngu. Hún einskostar skyldi vera sá rètti hvíldarpúnktur trúarinnar; hèr skyldi trúinn staðar nema, hvörki leingre nè skémra fara. Aður, meðan páfadómurinn ríkti, höfðu menn leingra farið enn Ritníngin kénnir, og bættu því við hennar lærdóma, svosem ófullnógir væru, ýmsum mannasetníngum, á hvörjum þeir

festu trú sína, en gleymdu Guds eigin ordi; til dæmis ad taka: þeir álitu menn þyrftu fleiri medalgángara vid, milli sín og Guds, enn Christs eins; fleiri réttlætíngar-medala fyrir Gudi, enn Christs fridþægíngar; fleiri Sacramenta, enn skýrnarinnar og altarisins; fleiri stada eptir daudan, enn himnaríkis og helvítis; og annad fleira þesskáttar. En mannlig skynsemi, sem, einsog Símon töframadur (Gb. 8, 9) fordum, heldur sig ad vera nockurskáttar mikla, og vill því mikid naudug vera neinum undirgéfin, þegar hún fann, ad sá fyrri páfadómur var hreint óforsvaranligur, og enda gagnstædur hennar eigin óbrjálúdu logum, gat samt ecki til leingdar eyrt því, ad láta Ritnínguna setja sér lög; og vildi þessvegna í trúarbragda-sokunum, ecki fara svo lángt, edur nema þar stadar, sem hún kénnir, heldur vera sinn eiginn löggjafari, svo í þessu málefni sem odru. Hún lætst vilja trúa því — því hún gétur ecki annad — ad Gud sé til, og ad hann sé einn einasti; en ad þar sé nockud þrennt í Guds einu veru, sem nefnist: Fadir, Sonur og Andi, einsog Ritníngin kénnir, því vill hún ecki trúa, heldur gjöra sig ad meistara yfir Guds leyndadómum; ad einn þessara þriggja í Guddóminum hafi klædst mannligu holdi, og ad þeim manndómi séu tillagdir gudsdómligir eiginligleikar; ad réttlæting mannsins fyrir Gudi, hángi einúngis af Christs fridþægíngu, en ecki af mannsins verkum (sem forþénandi ástædu), og fleira svoddan, þad vill hún hafa rétt til ad útleggja, eptir sínum eigin þócka, en ecki Ritníngarinnar bókstaf. Ritnínguna lætur hún ad sonnu heita góda sidalærdómsbók í mörgu, en ecki í ollu, en á trúarlærdómi hennar hefur hún ymugust; og heldur ad á honum ridi ecki mikid til mann-

sins velferdar, þegar lífnadur hans verdi ad eins ecki løgfeldur. Þessa þrætu vakti mannlig skynsemi snemma, en endurnýadi hana þó alvarliga med sidaskiptunum; því þó flestir af endurbæturum stædu á því máli, ad eigna Ritníngunni forrétt yfir mannligri skynsemi, í trúarinnar sökum, einkum Lúther og hans áhángendur, samt uppreis skømmu þar eptir einn endurbætari í Italíu, ad nafni Socinus, sem ogsvo tók ad hreinsa trúar-brøgdin frá pápiskum villum, en vildi láta skynsemina vera sinn vegvísara þarí, en ecki svo Ritnínguna. Lúther þvert á móti, áleit Ritnínguna fyrir þad sem Sara var í Abrahams húsi og skynsemina sem Agar, en Socinus því gagnstædt. Og af þessum kolum hefur nú leingi brunnid; því mest allt þad strid, út af trúarbrøgdunum, sem uppkomid hefur nú á seinni tímum, er næstum því eckért annad, enn strid á milli Lúthers og Socins lær-dóma; strid á milli trúarinnar og skynseminnar dýrk-enda; milli Jesú Guddóms játenda og neitenda; mill-um hans fridþægíngar heidrenda og forsmáenda; já, eg seigi, med gódum grundvelli, millum ljósins og myrk-ursins; millum sannleikans og lýginnar. En hvornig ad Lúther og mederfidarar hans, álitu ad christilig trúar-brøgd ættu á Ritníngunni ad byggjast, sýna ad sønnu mørg rit eptir þann sæla gudsmann, en þó eckért betur enn þad, í hvors minníngu þessi hátid haldast skal, nefniliga hin svokallada Augsburgiska Trúarjátníng. Enda gétur eínginn sannur Ritníngarinnar heidrari fundid annad, enn ad trúar-atridi hennar séu øll ótvírædt á Ritníngarinnar ordréttum — Gudi verdugasta og monn-unum heilsusamligasta — skilníngi grundvøllud. Hvar fyrir hún, svo sem einkennis-bók vorrar kyrkju, er sú,

ad hverrar leidsögn, vér allir hinir geistligu svarid höf- um ad kénna fólkinu, eptir heilagri Ritníngu. Þess- vegna má oss nú hátídarhald þetta vera yfirmáta gledi- ligt og mikilvægt, og þad eingu sidur enn hid fyrra. Því í tilliti endurbótar trúarbragdanna, og hreinsunar frá Páfans villum kémur öllum yfir höfud saman um — öllum, segi eg, bædi Ritníngarinnar og skynseminnar heidrurum; trúarinnar og verkanna talsmönnum; Christs og eigin réttlætis átreystendum. — þessum kémur öllum saman um, ad hún hafi stórnaudsýnlig og hrósverd í fyrstu verid; en í tilliti hins, hvar sú endurbót eigi skadar ad nema; hver hennar sjónarpúnktur — hvert Ritníngin edur skynsemin — vera skuli; hvert hún álitast eigi sem uppbyrjad edur fullendad verk, þar um er þrætan vid hold og blód ecki útkljád. Nú þar sem þetta hátídar- hald bendir oss þó fullkomliga á vissann sjónarpúnkt í þessu tilliti, nefniliga á heilaga Ritníngu, — og þad í gégnum þá augsburgisku trúarjátníngu, sem annad sjónargler — já bendir oss til ad endurbótin sé full- komnud, þad sem snertir hvad trúa skal og þarf, í þessu lífi, — því segi eg, ad þessi hátíd má vera oss yfrid gledilig og mikilvæg. Gledilig fyrir þá skuld, ad vér, af því hér ad lútandi kongúngsins bodi, sannfærunst um: hversu Gud, midt í þeim ótal villutrúar sjónhverfíng- um, sem, eins og onnur reykjarsvæla frá undirdjúpinu gosid hefur, ad undanförnu svevel yfir trónana sem kyrk- jur og skóla, allt of vída, hefur þó eingu ad, sidur haldid hjarta konúngs vors föstu, vid þann gamla gud- dómliga sannleika, og látid hann nú rétt sem hefdi hann, med sínu konúngliga bodi.

Þar næst má hald þessarar hátídar vera oss mikil-

vægt fyrir þad, ad þad hvetur oss kroptugliga bædi kénnendur og tilheyrendur til ad halda óbifanliga vid vora elskuverdu fedra trú, af því hún er svo óyggjanliga á Guds opinberada ordi, heil. Ritníngu, bygd og grundvöllud; samt til ad strída fyrir hennar forsvari, heidrun og hlýdni, allt til daudans. Þarfyrir vil eg þá, k. tilh.! á þessari nádarstundu, leitast vid ad brýna fyrir mér og ydur, svo skiljanliga sem eg gét, svo vel í tilliti orda vors heil. texta, sem hátídar þessarar adalaugnamids, þess eptirfylgjandi þrjú atridi: 1) Hvörsu sá sem fylgir lærdómi þeirrar augsburgisku játníngar trúliga, medkénnir Jesúm fyrir mönnunum verdugliga og þvert á móti. 2) Hvör sem hennar lærdómi, í því veruliga, mótmælir, sá afneitar Jesú fyrir mönnum. Og loksins: 3) Hvad af hvörju fyrir sig fljóti í tilliti medkénnenda og afneitenda. Ó þú eilífi höfundur og fullkomnari trúarinnar, Herra Jesú Christe! géf oss öllum þinn Guddóms anda, til ad medkénna þig verdugliga, og í þeirri medkénníngu allt til lífsins enda stödugum ad standa! Bænheyr þad, blessadi Herra! Amen!

## Utskýríng Textans.

Í tilliti hins 1ta atridis, er eg hét um ad tala, nefniliga: ad sá sem trúliga framfylgir lærdómi þeirrar augsburgisku játníngar, vidurkénni Jesúm fyrir mönnunum verdugliga, þá eru þad sérdeilis þrír vitnisburdir heil. Ritníngar um Jesúm, sem mikilvægastir eru, og sem undirstödu-stöplar vorra evangelisku trúarbragda, hvörja áminnst trúar-játníng

strax í upphafi framsetur; nefniliga: Um Jesú Christi persónu, ad hann sé sannur Gud og sannur madur. Ordid, seigir hún, þad sem var í upphafi hjá Gudi og var Gud, og fyrir hvørs krapt allir hlutir skapadir eru, þad vard hold, (edur náttúrlig manneskja); sem hér umgéckst medal mannana á jørdunni. Sá sem nú vid þennann lærdóm fast heldur, hann vidurkénnir Jesúm ad vísu, ad þvíleiti. En vidurkénning manns verdur eptir því Jesú verdug, sem fylgi lærdómsins er trútt og einlægt. Því skéd gétur, ad einn standi ad sønnu stift á þessu máli, í tilliti játningarinnar med vørunum, en sé samt eínginn sannur Jesú vidurkénnari og heidrari í hjartalagi og lífernl, og er þá hans vidurkénning Jesú óverdug. Því nú stendur alls ødruvísi á stofnum á þessum døgum, en stód á þeim tímum, sem Jesús ord þaug, er textinn inniheldur, taladi. Þá kostadi þad, ef til vildi, líf, æru og góts, ad játa því um Jesúm, ad hann væri Messías, auk heldur Guds Sonur edur Gud í mannligu holdi, (til hvørs Nýa Testamentid sýnir oss nóg dæmi); svo þá mun valla nockur sá hafa vidurkénnt þetta um Jesúm opinberliga, med munninum, sem ecki var í rauninni svo inntekinn af elsku til hans og trú á hann í hjartanu, ad hann ecki einasta heidradi af allri alvøru lærdóm hans og hlýddi hønum, heldur var og reidubúinn til, ef á því lægi, ad láta lífid fyrir hans sakir. En nú er allt ødruvísi ástadt; nú er enginn útvortis skadi né skømm þar vid ridinn, ad játa Jesú eilífu guddóms hátign fyrir mønnum opinberliga, heldur yrdi þad gagnstæda, af mørgum, til lýta lagt, en heidurs og hyllisvon framar af hinu; þessvegna er slík játning med

ordum einum nú á dogum, eckért fullkomid merki þeirrar trúar á Jesum, er vera skal undirstada og rót, þeirrar vidurkénníngar, sem textinn umgétur. Munnsins jáníng ein gétur vel átt heima hjá þeim, sem Ritníngin seigir: ad nálægist Gud med vørunum, en þeirra hjarta sé þó lángt frá. Ecki svo ad sonn á þann hátt, ad þeir eiginliga þeinki annad enn þeir tala, heldur hitt, ad þar fylgir engin sonn hjartans audmýkt þeirra játníngu, og eingin hlýdni vid hans guddómligu bodord; svo slíkir eru í tolu þeirra hálfvolgu, sem Jesús seigist vilja skyrpa út af sínum vørum. Vér vitum ad Guds sonur á ad heidrast med somu elsku, sama trausti og somu vyrdíngu, sem Fadirinn. Þessvegna nær vér medkénnum Jesú eilífa Guddóm, seigum oss ad trúa ad hann sé ljómi Guds dýrdar og ímynd hans guddómligrar veru, sé Gud yfir øllum hlutum blessadur ad eilífu, sé sannur Gud og eilíft líf; edur med ordum þeirrar Nicæanisku trúarjátníngar, játum: ad hann sé Gud af Gudi, ljós af ljósi, sannur Gud af sønnum Gudi; edur eins og Athanasius kémst ad ordi: ad hann sé Gud af Fødursins náttúru í heiminn fæddur, en madur af módurinnar náttúru í heiminn fæddur; fullkominn Gud og fullkominn madur; jafn Fødurnum ad Guddóminum til, en minni enn Fadirinn, ad manndóminum til. Þegar vér nú þessa edur því líka vidurkénníngu framberum um Jesúm, svo mennirnir heyra, ber oss ad láta henni fylgja svo audmjúkt hjarta, sem best gétum, fyrir hátign þvílíkrar persónu, og prýda svo þá vidurkénníngu vora gudligum lifnadi, leyndt og ljóst. Ad framfæra slíka vidurkénníngu svo sem holdligt disputatíu efni,

edur sem stríds- og keppnistal móti Jesú guddóms nidrurum, er ecki til neins, sú stolta skynsemi vinnst eigi, med þeim vopnum; þaug verdu ecki einasta, ad vera tekin úr siálfs Guds týhahúsi, heldur og brúkast af þeim, sem af innvortis reynslu uppmentadur er í Jesú stríds-skóla. Þad er spillt ómak, ad taka til vopna, eins og Pétur, til ad verja Jesúm fyrir hans óvinum, þegar þeir koma med blis og stángir holdligrar sérvitsku og vantrúar út á móti honum, ef vér erum ecki í anda vorum svo útbúnir, ad vér, hvad sem uppá fellur, stondum stødugir, og afneitum honum ecki, þegar nockud áherdir. Ef vér játum Jesúm Gud ad vera, þá látum heiminn siá, ad vér þá veitum honum guddómliga heidrun, med hlýdni vid hans bodord, haldi hans skipt-ana, og eptirbreitíngu hans lifnadar, svo heimurinn siái, ad oss sé alvara enn ecki látalæti; og ad vér gjørum þad fyrir oss, en ecki fyrir hann, ad taka hans málstad. Margur spillir gódu málefni, med óforsiálum málsferli í líkamligum sokum, og þetta sama ecki sídur í þeim andligu. Menn vita, ad siálfir þeir Catholsku — hverra trúarbregd þó svo blendin eru — hafa sumir allkappsamir verid í ad forsvara Jesú Guddóm, ad játn-íngunni til; en af því þeir hafa svo hrædiliga vanheidrad hann, ad hlýdninni til, hefur forsvar þeirra ordid Jesú opt til líttillrar æru, og þeim siálfum til enn minni luckn.

Sá annar adalvitnisburdur Ritníngarinnar um Jesúm, (og sem vor trúarjátníng inniheldur), er um hans Medalgaungu-embætti; nefniliga ad hans erindi í heim þennann, hafi verid ecki einasta, ad kénna oss Guds gotu med lærdómi sínum og lifnadi, heldur

sérdeilis til þess, ad gjörast, med sinni pínu og dauda, fridþægíngar-fórn, fyrir allar. alls heimsins syndir, svo vér, fyrir hans skuld, fundid giætum nád hjá Gudi, fyrirgéfníngu synda vorra, réttlæti og eilífa sáluhjálp, þegar vér ad eins, med lifandi trú á hann, leitum þessa. Þetta sagdi Jesús um sjálfan sig, í rædu sinni vid Nicodemum, þegar hann taladi um naudsýn og mögulígleika endurfædíngarinnar; því hann vitnadi, ad mannsins sonur ætti eins ad upphefjast (nefniliga á krossins gálga) eins og Móyses upphafid hefdi eyrorminn fordum á eydimörku, í þeim tilgángi, ad allir þeir sem á hann trydu, ecki skyldu fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Sama vitnadi hann fyrir sínum lærisveinum á sinni sídurstu reisu til Jerúsalem, ad hann nefniligu ætti og ætladi, ad útgéfa sitt líf til lausnargjalds fyrir marga; og loksins þegar hann átti ecki nema einn sólarhríng eptir ólifadann í heiminum, stód hann enn á því sama: ad hann úthella mundi sínu blódi fyrir marga til synda fyrirgéfníngar; fyrir utan þad sem þessi háleitasti og huggunarríkasti lærdómur vorrar trúar er, af Postulum Drottins, eptir hans upprisu, margfaldliga sannadur; hvör lærdómur er sem kjarni og kraptur alls Evangelii. Þessi lærdómur hefur þó ecki sídur, enn hinn fyrri: um Jesú Guddóm, verid þyrnir í augum veraldarinnar vitrínga; því þad ordid af krossinum, er, eins og Páulus seigir, þeim dárensku, sem fortapadir verda. Hvör sem nú þessvegna fylgir lærdómi vorrar trúarjátníngar í þessu efni fyrir mönnunum, seigi eg ad vísu, ad vidurkénni hann fyrir þeim; en eg seigi þó eins um þetta atridi, sem hid fyrra: ad allt er undir því komid, í tilliti vorrar

medkénníngar um Jesúm, med hvorju hugarfari vér gjörum hana; því sé þad trútt og hreinskilid, er vidurkénníng vor Jesú verdug, annars ecki. Mótstandararnir bera oss þad á brýn, ad vér undir skjóli þessa lærdóms, um Jesú fridþægíngu og fórnardauda vor vegna, leifum oss því meiri fríheit, ad syndga uppá nádina, og vilja svo út af lærdómsins misbrúkun, draga rok til hans ógyldis og skadligleika. O! í Guds nafni, gjörum þá ad lygurum! Þetta, í sjálfu sér kraptlausa, vopn, er oss hægt ad hrífa úr höndum þeirra, ef vér prýdum trú vora og vidurkénníngu med gudligu liferni, annars voldum vér því, ad Guds nafn verdur spottad í heiminum; og vér sjálfir verdum fyrir vora vidurkénníngu til skammar fyrir Gudi og mönnum. Sá sem þarfyrir vill í sögdu tilliti Jesúm fyrir mönnunum trúliga vidurkénna; sá sem vidurkénnir ad hann hafi fridþægt heiminn vid Gud, med sinni pínu og dauda, og þannveg sýndt mannkyninu þann allrastærsta velgjörníng, sem hugsast og talast kann, láti hann þá sjá, ad hann elski Jesúm því meira, sem hann játar ad hann hafi aundsýndt sér meira gott; já sýni hann þad, ad hann kappkosti því betur ad lifa eptir hans sidalærdómi, sem hann metur meir hans persónu og fridþægingu; því Jesús kallar þá eina ad elska sig, sem hlýdi bodordum sínum og gjöri sinn vilja. Þetta flýtur líka af þessa blessada lærdóms náttúru, sé hann rétt skilinn og medfarinn. Eg segi: rétt skilinn; því Paulus, sem kénnir lærdóm þennann greiniligast og hann ýtarligast prédikar, kallar ad vér gjörum Jesúm ad synda þénara, ef vér látum syndina yfir oss drottna, midt í því vér þó játum ad verda einúngis réttlátir fyrir trúna á Jesúm, en

ecki fyrir lögmálsins verk; og hvílíka vanvyrdu giörum vér þá Frelsara vorum med játníngu vorri? Ney! svo sem vidurkénníng vor um Jesúm, sem fridþægara fyrir vorar og alls heimsins syndir, hlýtur, ef hún í Guds augum skal nockurt gyldi hafa, ad framkoma af lifandi trú á hann; svo er trúin ecki lifandi, nema hún verki fyrir kjærleikann; en kjærleikurinn er ecki sannur, nema hann auglýsi sig í hlydninni vid Jesú skipanir. Já melra ad seigja, sé þessi dýrmæti fridþægíngar lærdómur rétt medfarinn, verkar hann þetta óyggjanliga; því þegar eg iminda mér Jesúm, adeins sem besta lærifødur, gétur ad sonnu uppvakist hjá mér vyrdíng og blygdun fyrir honum; og hún því meiri, sem eg finn mér torsóktara ad lifa eptir hans lærdómi, en lángar þó til þess af alvoru; en þegar eg iminda mér hann undir eins sem fridþægara og fyrirbidjara, uppfyllist hjarta mitt af inniligri elsku til hans og trú á hann, svo eg geing þá gladur undir hans ok, hvert eg finn ad er svo yndælt og létt; yndælt fyrir þad, ad þad er svo gagnligt, ad þad ávinnur mér stundliga og eilífa sálar-endurnæringu; en létt af því, ad hann sjálfur líka sem ber med mér, svo eg finn ecki af því til neinnar plágandi byrdi, þár allur þúnginn líka sem hverfur, en endurnæríngin einskostar verdur eptir.

Sá sem nú þannveg skilur og medfer lærdóminn um Jesú fridþægíngar dauda fyrir heimsins syndir, hann giörir Jesú og sjálfum sér sanna æru med sinni vidurkénníngu; já æru fyrir monnum hér í lífi, en fyrir Gudi annars heims. O, ad Jesús ætti marga þvílíka vidurkénnendur, þá mundi lærdómur hans brádliga sigri hrósa, yfir ollum vantrúarinnar voslum og mótmælum,

þá mundi hans og hans Føðurs nafn réttiliga helgast; hans nádarríki koma og útbréiðast með krapti um heimsbygðina; já hans vilji — hans nádarvilji, í umvendun syndaranna ské, hér á jörðu, eins og hann skéður, fyrir lofgjörð og heiðrun einglanna á himnum.

Sá þriðji merkiligasti vitnisburður Ritníngarinnar, um vorn Endurlausnara — eins og vor trúarjátníng og svo nefnir — er sá: að hann sé af Guði settur dómari lifendra og dauðra. Þetta sagði Jesús með aldeilis berum og ótvíræðum orðum um sjálfann sig: Faðirinn dæmir eingann, sagði hann, heldur hefur hann gefið syninum allann dóm; já, að sú stund muni koma, að allir þeir í grøfunum eru skulu heyra hans raustu, og að þeir munu þá framgánga, sem gott hafa gjört, til lífsins upprisu; en þeir, sem illt hafa gjört, til dómsins upprisu. Og þetta sama vitnuðu og svo Postular hans um hann. Sá sem nú þetta viðurkénnir um Jesúm, viðurkénnir hann að sönnu réttiliga í því tilliti; en með hvörju hugarfari hann gjörir það, ríður þó allra mest á.

Að viðurkénna og játa, að Jesús muni dæma sig og allar manneskjur á sídarsta degi, en gjöra sig þó með vísvitandi syndum dómsekann í hans augliti; ó hvílíkt blygðunarleysi! Munu ecki þeir, sem þá viðurkénníngu heyra, og sjálfir vantrúaðir eru, hlæa að slíkri viðurkénníngu; munu þeir halda hana fyrir nockra alvøru, eður fá í sig nockurn éptirþánka af henni? Enda tala og andvaralausir syndarar sem sjaldnast um Guðs dóm, því þeirra samvitska óróast þarvið, undir hvörrar svefni kominn er øll þeirra svikula sæla. Heldur kannské komi það að þeim, að þeir minnist á Christi guðdóm, til að

taka á sig svip hans sonnu dýrdkenda; eda á Christi fridþægingu, af hverju himneska heilsubótar medali þeir birta sér skadligasta svefndryck, svo þeir þess værara sofid géti á uggaleysisins kodda; en um sídarsta dóm vilja þeir færst tala, nema ef einhver holdlig sérvitska kittar þá þartil. En vitum þó, brædur! ad vér þurfum eins opt ad hugsa til Jesú sem dómara sem fridþægara; og þad því heldur, sem hans þýngsti stroffunar dómur verdur fyrir hans fridþægíngar foraktun, yfir þeim sem henni hreint neitad hafa; en fyrir hennar misbrúkun yfir hinum, sem midt í ydrunarleysi og vísvitandi synda þjónustu á hana treyst hafa. Stefnuna fyrir þennann hrædiliga dóm, er fyrir laungu búid ad byrta oss; vort líf hér er stefnufresturinn, hvørn vér ættum því ad nota oss sem best, til ad géta mætt vel undirbúnir, fyrir Christí dómstóli. Gild gogn og vitni rídur þeim á ad hafa, sem fyrir jardneskum rétti ecki vill dómfeldur verda, á vidlíku ridur oss líka, ádur enn vér fyrir Guds og Christi dómstóli mæta skulum, ef vér viljum þar, í vorri sálar sok, sigur fá, og ecki verda dæmdir til eilífrar útskúfunar. Gognin, sem vér þurfum ad fá, kalla eg **Guds nád í Jesú Christó**, en vitnin gudligt hugarfar og hegdan eptir Christí logmáli. Gognin nota oss ecki, ef Gud vitni vantar. Þaug fyrri verdum vér ad útvega oss hjá Gudi sjálfum; og þad gétum vér, ef oss ecki brestur trúada bæn og bidjandi trú til Guds fyrir Jesúm Christum; en vitnin verdnm vér sjálfir — þó fyrir Guds adstod — ad géta framleidt. Guds andi verdur ad hjálpa oss til hvorutveggja; um hann verdum vér því óaflátanliga ad bidja Gud í Jesú nafni; því nær Gud géfur oss hann, verkar hann hjá oss, fyrir

Evangelium, þetta tvennt: trúna og kjærleikann; trúna, með hverri vér hondlað fáum Christi friðþægingu; í hverri fólgið er vor óyggjanligasta heimildar skjal fyrir eilífu lífi; og kjærleikann, fyrir hvorn vér gétum heldsthaft gildt vitni guðligs lifernis, fyrir oss að bera. Sá sem nú þannig breytir og undirbýr sig, gétur — og heldur einginn annar — hæfur orðið til að mæta fyrir Christi dómstóli. Lesum því, bræður og systur! lesum opt yfir þessa stefnu Guðs til vor, fyrir dóm þennann; hana finnum vér í orði hans, og gjætum síðan vel að sèk vorri; og að ollu því, sem hana kann að skémma eður bæta. Imyndum oss opt, svosem stefnudagurinn kominn væri; eins og vér sæum dómstólinn reistann, dómarann á honum sitjandi, og oss fyrir hans heilaga augliti framkallaða. Ef vér svo gjorum, mun oss því síður hætt verða að gleyma Guðs dómi, er svo morgum, miðt í heimsins sýsli og solli, fellur hreint úr minni. Leitunst ogsvo við, að fá aðra ásamt oss, uppvakið til að hugsa um ástand sálar sinnar, áður enn dómur Guðs yfir þá fellur; það mun vorum Herra vel líka; og vor viðurkénning um Jesúm, svo sem dómara lifendra og dauðra, verður honum þá til sannarligs heiðurs, en oss sjálfum til bestu blessunar.

Þetta sé þá svoleiðis úttalað um það fyrstu atriði máls mins, nefniliga um það: hvørnig sá, sem eptirfylgir lærdómi þeirrar augsburgisku trúarjátningar trúliga, meðkénnir Jesúm fyrir mønnunum verðugliga.

En um hið annað atriði þessarar minnar ræðu — svo sem því áður útmálaða hreint gagnstæðt — nefniliga þetta: að hvør sá, sem augsburgisku játn-

íngarinnar lærdómi, í því veruliga, mótmælir, sá afneitar Jesú, fyrir mönnunum, um þetta má eg þess fáordari vera, sem það gagnstæða skilst betur, af ödru gagnstædu, því mótsettu. Hvad myrkrid sé óskemtiligt, sjest best af því; hvad ljósid er yndisligt; hvad sjúkdómurinn er skadligur, af því hvad heilsan er hagkvæm; og hvad daudinn er óttaligur, af því hvad lífid er dýrmætt. Þessvegna, ef sá einn vidurkénnir Jesúm verdugliga, sem med tilbeidslu hans guddóms, trausti hans fridþægíngar, og heidrun hans dómara tignar, fylgir Ritníngarinnar lærdómi; hvornig má þá álíta þann, sem öllu þessu edur sumu hafnar? Er hann ecki sannur Jesú afneitari? Já, ef ad sá sem þetta allt vidurkénnir um Jesúm med munninum, og þad ei af hræsni, hvad þad bókstafliga snertir, en vantar þó í hjarta sitt sanna trú á Jesum sem Gud, sannann kjærleika til hans sem fridþægara, og sannann ótta fyrir honum, sem allsholds dómara; ef, seigi eg, ad þessa manns einfalda bókstafliga vidurkénníng dugir þó eckért, og Jesús metur hana ad litlu verdi, hversu mun þá sá álitinn verda (imindum ofs þad!), sem bædi neitar bókstafnum og andanum. Hinn fyrri er þó einu feti nær Guds ríki, enn hinn, jafnvel þó hann kannské aldrei þar innkomist. Sá eini hefur yfir tvö fjöll ördug ad brjótast — ef hann nockurntíma ná skal lífsins landi — hinn ad eins yfir eitt. Eg vil taka héruppá einslags samlíkíngu: Sá sem ad sönnu situr í myrkri — af því hann elskar myrkranna verk — en hefur þó ljós í húsi sínu, hulid undir mæliaski, svo þad hvorki lýsit gétur honum né ödrum, af því hann notur sér þad ecki, jafnvel þó hann ecki eiginliga forsmái þad, á þó hægra med ad fá byrtu,

ef hann vill, med því ad taka mælí-askinn burt, enn hinn sem í sama myrkri situr, og vísvitandi hefur slöckt ljósid, sem hann, eins og hinn, átti, af því hann forsmádi þad. Vid þann fyrka mann má, ad nockru leiti, líkja páfadóminum. Aldrei neitudu né neita Papistar Jesú guddómi, Jesú fridþægíngu og Jesú dómaramakt; ney! þeir halda vid allt þetta, ad ordi qvednu, sem vér. En af því hjátrúin — vantrúarinnar dóttir — hafdi, til þægdar þeim gamla Adam, komid þeim til ad blanda saman vid þessa heiloguſtu lærdóma, allra handa hégiljum, sem hormuliga drógu hjortu þeirra frá Guds sonnu dýrdkun, til ad fylgja vitlausustu mannasetníngum, en gleyma Ritníngarinnar ljósi, í tilliti ádurnefndra lærdóma — hvorja þeir sett hofdu eins og undir mælíask, svo hún fékk ecki ad lýsa þeim né odrum (jafnvel þó þeir í rauninni segdu hún Guds ord væri, og ad því leiti ecki forsmádu hana). Þessir voru ad sonnu blindir og blindra leidtogarar, og gátu þessvegna ecki annars, enn med ollum sínum áhángendum fallid í grifjuna, þar þeir ecki vildu nota sér þad ljós, sem þeir áttu þó til, heldur héldu því duldu fyrir sér og odrum; og meina til, heilagri Ritníngu, sem í páfadóminum var fólkinu fyrirmunud.

Þessvegna til ad leida slíka fram úr villunni, þurfti ecki annad enn koma þeim til ad taka mælí-askinn af ljósinu og setja þad á kértahaldinn, svo þad lýst gjæti ollum í húsinu; hvad þegar þeim sæla Lúther og hans samerfidurum tókst, feingu þeir undir eins marga, fyrir Guds nád, leidt á sannann sáluhjálpar veg; jafnvel þó mesti fjoldinn eptir yrdi, sem ei vildi skipast láta; sumir af því, ad þeir voru ordnir svo óvanir

ljósinu, ad þeir sælduſt þad; ſumir fyrir þad, ad þeir vóru ſvo innteknir ordnir af myrkrunum og elſkudu þeirra verk, ad þeir flúdu ljósid, ſem ſtraffadi þá fyrir þaug, og byrgdu ſvo augu ſín fyrir því; vidlíkt eins og hendir marga á medal vor, ſem látaſt ljósid heidra, en ſnúa ſér þó alltíd undan, nær þad er fyrir þá borid, vilja ecki láta lýſa med því inni fylſni hjarta ſíns, til ad reka í burtu þær laſta forynjur, ſem þar hafa ſér búſtad tekid; og þeſsvegna verdur ljósid ſlíkum, ecki nema til fordæmíngar. Þvílíkar manneſkjur eiga því heima, ecki einaſta í þeirri cathólſku, heldur ogſvo í hinni próteſtantiſku kyrkju; því alltíd finnaſt þeir — já verdur fleira þeirra — ſem elſka framar myrkrid enn ljósid.

En vid þann ſídara mann, í ádur framſettu dæmi, nefniliga þann ſem í myrkrinu ſitur, og á eckért ljós, af því hann hefur þad vísvitandi útſlekt; já þó hann eigi eins og hinn, efnid til þeſs, forſmáir þad ſamt hreint, og blæs þad út, ef þad qvikna vill, fyrir einhverra atburdi; já álítur myrkrid vera ljós og ljósid myrkur; vid hvern af aldarinnar ſonum ſkal eg nú líkja þeſsum manni? Sannliga vid þá, ſem afneita lærdóminum, um Jeſú guddóm og fridþægíngu. Því þeſsir bleſsadu lærdómar eru, ad mínu viti, þad ſama fyrir Ritníngunа, ſem byrtan fyrir ljósid. Séu þeir frá henni burtu rýmdir, er. eckért eptir, nema ſá daudi bókſtafur, ſem eckért líf í ſér hefur; ſkurnid tómt, ſem einginn kjarni er í, og eins og heit einmyrja, ſem brennir, en lýſir ecki.

Þeſsar manneſkjur eru í ſannleika þær, ſem afneita Jeſú fyrir mønnunum; því þó þeir ecki neiti því, ad hann hafi til verid, hafi ſem gódur og dygdugur ſida-

lærari kénnt medal mannanna, samt, af því þeir ræna hann sinni guddómstign, og medalgaungu-embættis verdugleika og jafnvel dómara makt, er hid sama, sem þeir afneiti honum ad ollu leiti, og þolanligra, ad þeir stædu á því, ad hann hefdi aldrei neinn tilverid, enn ad neita því ecki, (sem þeir ecki géta, þó vildu, þar sá eblugi historiski sannleiki tekar fyrir munn þeirra), en reyngja þó og rángfæra ord hans siálfs, og hans ótáldrægu votta, um hans persónu verdugleika, og embættis hásleitasta augnamid, eru einhvor skynlausustu fjarmæli, sem brjóta sig nidur siálf. Þessar manneskjur munu sannarliga eiga miøg ørdugt apturhvarfs, hvorsu bygdugar sem þær á heimsliga vísu álitast verid hafa, já ødugra ad minni meiníngu, enn allir opinberir lastaþrælar, sem þó ad nafninu haldid hafa vid hin ádurnefndu lærdóms atridi: um Jesú guddóm og endurlausn. Því hinir vyrdast mér á næstu, ef ecki somu troppu, sem þeir menn, er Jésús umgétur: ad tali á móti heiløgum anda, edur þeir, sem Paulus seigir, ad krossfesti Guds son aptur ad nýu, hvorra umbendan hann álita sýnist ómøguliga; svo ad Tollheimtumenn og Pútur — þad er útvortis stórglæpamenn — eiga hægra med ad komast í himnaríki, enn þvílíkir. Hvor óttaligi sannleikur ogsvo stadfestist af því, sem Jesús seigir í vorum heilaga texta, ad fljóta muni af því: ad afneita sér fyrir mønnunum, svo vel sem af því: ad vidurkénna sig fyrir þeim; hvort ed var hid — 3ja atridi, er eg hét, fyrir ydar kjærleika, um ad hondla; og vil eg þá fyrst víkja á hótun Jesú til sinna afneitenda (þó hún fylgi á eptir í Jesú tali); svo eg med því glediliga fyrirheitl, sem hann gefur sín-

um vidurkénnurum, hresst fái hjörtu þeirra, sem hans skélfilegu hótunar yrdi kynni ofbodid hafa. Hótanin er þessi til þeirra, sem afneita Jesú fyrir mönnunum: ad hann vilji aptur í stadinn afneita þeim fyrir sínum Födur á himnum. O, hvörsu skélfilig er hótan þessi! Hún er ógnarligri enn Guds lögmáls formælínga þrumur frá Sinaí; því einmidt á mótl þeim er blessud fridþægíng og fyrirbón Jesú vissasta huggun og hæli. Sá, hvörn Móyses fordæmir, þarf ei annad, ef hann vill, enn flýa til Jesú, til ad fá frikenníngu. Sá hvörn lögmálid lýsir bölvadann, ef hann í sannri ydrun og trú snýr sér til Jesú, sem guddómligs fridþægjara og árnadarmanns, þá lýsir Evangelíum hann blessadann. En vilji nú Jesús ecki vidtoku veita, þá er í öll hjálparskjól fokid eilífliga fyrir syndaranum. Seigi Jesús vid syndarann: "eg kannast ecki vid þig, eg þecki þig ecki; þú hefur forsmád minn guddóm og endurlausn; viktu frá mér, hinn bölvadi, í eilífann eld, sem fyrirbúinn er Djöflinum og hans árum!" Þá er syndaranum eingin vægdar von; Guds reidi hlýtur þá ad brenna yfir honum ad eilífu. Þegar Jesús ecki vill leggja til med syndaranum hjá sínum himneska Födur, þá, þó syndarinn ydrist, eins og Júdas, og vilji hjá Gudi nádar leita og framtelji sér til afbötunar mannligann breiskleika, og dæmi annara, sér kannské ad sídferdi, um hrid, lángtum verri, sem Gud hafi þó tll nádar tekid, og géfid eilíft líf; já þó hann gjæti — og þad med sönnu — talid sér til gildis ýmsa mannkosti og atgjörfi, sem hann hafi fram yfir adra til ad bera, þó hann hafi haft þá trú, sem fjöllin gat úr stad fært, þó hann géfid hefdi allar sínar eigur fátækum og látid

brenna sinn líkama tíusinnum, vandlæti sínu til vitnis, en hefdi þó ecki haft kjærleikann til Jesú, sem guddóm- ligs fridþægjara, (jafnvel þó hann hafi þeckt hann og kjærleika hans til mannkynsins), þá finnur hvílíkur syndari samt einga nád hjá lifanda Gudi, því bölvadur veri hver sá, segir Paulus, sem ei elskar Drottinn Jesúm Christum! En eingir þeir elska hann, né géta í sannleika elskad, sem neita hans guddómi og fridþæg- íngu. O, ad allir þessir vildu, ef mögulígt væri, sjá ad sér í tíma, med ad flýa til Jesúm sjálfs, og leita fyrirgéfníngar hjá honum, á sínu ádursýndu forakti hans persónu og embættis, og tækju sídan fyrir sig ad vidurkénna hann, eins opinberliga fyrir mönnunum, sem þeir ádur hafa honum afneitad, ef ské mætti, ad stærd hans nádar gjæti útbreidst yfir þeirra vondsku. Fyrir þessum forblindudu er skylda vor ad bidja; því þó hætt sé mjög vid, ad þeirra synd sé til dauda, fyrir hvörri ad Jóhannes Postuli segir ad ei bidja skuli, þá veit þad þó einginn af oss med vissu, og vér erum ecki færir um þad ad dæma, (fyrir utan hvad forherdíng þessara mannsképna er misjöfn og af misjöfnum orsök- um sprottinn); og því skulum vér í frómum kjærleika innilykja þá af öllu hjarta í bænum vorum; og mun Gud víst ecki forsmá vorn einlæga tilgáng. O, sjáum nú, brædur! í hvörsu hörmuligu ástandi þeir eru, sem afneita Jesú fyrir mönnunum, og sem hans guddóms og fridþægíngar lærdómi skúfa; þeir eru þeir aumustu og ólúckuligustu allra sképna undir sólunni. Snúum nú, elskanligir! vorum hugskots augum frá þessari hrædiligu símindun til annarar glediligri; nefniliga, til ad íminda oss luckú þeirra, sem Jesúm fyrir mönnun-

um — svosem sannann Gud og einasta Medalgángara — játa og medkénna. Sannarliga eru þessir þær réttu luckumanneskjur á jördunni; og þó þeirra lucka sýnist opt lítil, fyrir augum þeirrar forblindudu veraldar, er hún þó stærri í raun og veru, enn öll sú lucka, sem öll veröldin veittgétur. Mundi ecki sá madur álítast lucknligur, þó hann um hríd fátækur væri og fyrirlitinn, sem ætti þann bródur, er í hærstu makt og hávegum væri í konúngsins hofgardi, sem allt gjæti feingid hjá kónginum er hann vildi, og sem lofad hefdi ad taka þegar minnst verdi, sinn fátæka bródur til sín, og gjöra hann hluttakandi í tign sinni og audæfum, ef hann ecki med breytni sinni gjördi sig síns bródirnis og elsku ómakligann. Nú stendur þó allteins á stofnum fyrir sérhverju sönnu Guds barni hér á jördu: þad á bródur á himnum, þar sem Jesús Christur er, sem rád hefur yfir öllum eilífrar sælu audæfum, ásamt Gudi, og fær hjá sínum Födur — himins og jardar konúngi — allt hvad hann vill tilmælast, handa sínum vesælu, en þó frómlyndu brædrum og systrum hér á jördunni, og vill svo loksins taka þaug til sín, í sitt dýrdar ríki, og gjöra þaug hluttakandi med sér, í himneskrar sælu gnógtum eilífliga. Hvad þurfa nú slíkir ad óttast; fyrir hvörju þurfa þeir ad kvída? Þeir eru, þó hér á jördu vetkist, eins handvissir eilífs lífs erfingjar, eins og þeir væru þángad komnir; því þetta Jesú fyrirheit: hvar eg er, þar skal og minn þénari vera, bregst aldrei ad eilífu. Af því þeir medkénna hér Jesúm fyrir heiminum, sem sannann Gud af Gudi, sem sannann Endurlausnara heimsins, og sem sannann Dómara lifendra og daudra, þá vidurkénnir Jesús þá aptur á móti fyrir sönn

Guds børn, fyrir sanntrúaða og sann-útvalda; já, hann tekur málstað þeirra á kroptugasta hátt. Og ennnú, hvað meira er: þó þeir hafi um hríð afneitað honum með verknum, en samt aldrei fallið frá að trúa því og játa, að hann sé sannur Guð og eilíft líf, enda þótt heimur og hold hafi hræðiliga villt þá frá Jesú eptirfylgd og komið þeim til að syndgā uppá náðina; þá samt nær þeir umsíðir snúa sér, í Jesú nafni, til lifanda Guðs, og leita náðar hjá honum í hans blóði, og það af einlægu geði syndina hatandi, en húngradir og þyrstir eptir réttlætinu, þá geíngur Jesús svo gott sem fram fyrir sinn himneska Føður, þeirra vegna, og seigir: "Æ, minn himneski Faðir!, taktú nú þennann syndara til náðar, mín vegna; hann kémur nú til þín í mínu nafni — hvørs nafn hann aldrei, með því að afneita mínum guðdómi og friðþægíngu, hefur, í rauninni forsmáð — þó hann af sinnum sálar óvinum hafi afvegaleiðst, til að syndga uppá hana í oftrausti! En nú ydrar hann þess af hjarta; nú vill hann hér eptir prýða trú sína á mig, með guðligum lifnaði. Hann vill hér eptir með hjarta, orðum og verkum viðurkénna mig og þig; mig, sem sinn endurlausnara og talsmann; þig, sem sinn forliktann Føður, fyrir mína skuld. Æ, fyrirgéfðú honum nú syndir hans, vegna minnar forþénustu, og kastaðu þeim í hafsins djúp, svo minníng þeirra ecki uppkomi að eilífu!" Þannig, kjæru bræður! er eg fulltrúa um, að Jesús leggi til með sérhvørjum ydrandi syndara — hvað stór og lángvarandi sem verið hefur — sem í sannri ydrun og trú á hans meðalgaungu, flýr til Guðs miskunar. Á hans meðalgaungu, seigi eg; því einginn ydran, einginn tár, eing-

inn lifnadar betran dugir neitt til synda qvittunar hjá Gudi, þeirri manneskju, sem án trúarinnar á Jesú blóds fridþægíngu, kémur fram fyrir Gud; þegar hún annars þetta blessuda lausnarmedal þeckt gat.

Og ef Jesús tekur nú þannveg, sem eg sagt hefi, málstad þeirra, sem vanvyrdt hafa hann um lángann tíma med lýferni sínu, þegar þeir um sídir leita audmjúkir nádar hjá Gudi í hans trausti, hvorsu mun hann þá sífeldt og hjartanliga mæla þeirra máli, hjá sínum Fodur, sem alla æfi leitast hafa vid, (edur eptir þad þeir loksins af alvöru hafa byrjad þad), ad heidra Jesúm og vidurkénna ecki einasta med ordum og játníngu munnsins, heldur og med gudligu hugarfari og liferni, fyrir mönnum, sem sinn Gud og endurlausnara. Um þvílíka má med fullum sanni seigja, þad sem Postulinn Páll skrifar: hvør vill ásaka Guds útvalda? Gud er sá sem réttlætir! Hvør vill þá fordæma? Christur er sá sem dáinn er! já miklu meir, sem líka er upp aptur risinn, og bidur fyrir þeim! Þessir meiga, eins og Guds børn og brædur Jesú, sífeldt hafa djerfúng og adgáng til Guds, med trausti af trúnni á hann. Þeir eru herlid Jesú Christi, sem undir hans blódmerki berjast, og meiga øruggir reida sig uppá sinn hertoga. Hann er ósigrandi, og þeir eins, medan þeir honum eptirfylgja. Þegar líkamligt mótlæti uppáfellur, og þeim finnst þúngi þess ærinn, en hrópa til Guds í Jesú nafni, ad géfa sér þolinmædi, þá geingur Jesús fram fyrir sinn Fodur þeirra vegna, og seigir: "æ, minn Fadir! legdú ecki meira uppá þá, enn þeir borid géta!" Þegar freistíngar ad þeim sækja, sem vilja annadhvort táldraga þá, edur hræda, til ad

yfirgefa Jesúm og strjúka yndan hans merkjum, bidur Jesús fyrir þeim, seigjandi: "æ, miñn himneski Fadir! láttu ecki trú þeirra þverra, og gef freistingunni þann enda, ad þeir fái vel stadist!" Þegar daudinn ad sídustu brýtst uppá þá, en dómur Guds ógnar þeim, kémur Frelsarinn med sína fyrirbón þeirra vegna, svo mælandi: "gefdu þeim nú, minn hjartans Fadir! þinn heilaga anda, sem styrki þeirra trú, svo hún bili ecki, þeirra von, svo hún veiklist ecki, og þeirra kjærleika, svo hann kólni ecki!" Hann bidur þá sinn Födur, ad minnast síns daudastrîds þeirra vegna, og gefa þeim sigur í daudanum, og ad taka svo ámóti þeirra sálum í sínar miskunnarhendur. Og Fadirinn bænheyrir þá vissuliga gladur sinn elskuligann son, og rétt sem breidir út fadminn móti sálum þeirra, sem eru þá med hans sonar blódi, fyrir trúna á hann, líka sem rjódradar. Svo fá þær þá hvíld í hans fadmi, allt til hins sídarsta dags, þegar Jesús, sem dómari lifendra og daudra, setur þær, sínum endurlifgudu og forklárudu líkömum, ad nýu íklæddar, vid sína hægri hönd, og ávarpar þá alla sína trúada, í einum hóp, med þessum ordum: "komid, blessadir míns Födurs, og eigníst þad ríki, sem ydur er, í frá upphafi veraldar, fyrirbúid!"

O, sjáum nú, elskuliga brædur og systur! hvílík verda endalok allra þeirra, sem trúliga hafa hér í heimi medkénnt Jesúm, fyrir sínum medmanneskjum; já medkénnt hann sem sinn Gud og þeirra Gud, sem alls mannkynsins Endurlausnara, og loksins þess ágvardada dómara; medkénnt hann ecki einúngis med ordum, heldur og med hugrenníngum og verkum; medkénnt hann ljóst og leyndt, í medlæti og mótlæti, fyrir vegsemd og van-

semd, svo sem Falsarar og þó sannordir, svo sem syrg=endur, þó jafnan gladir; já, sem hafa medkénnt hann med stødugri trú og elsku, bædi í lífi og dauda. O! látum oss þá ætíd alla saman kappkosta ad fylla þéssara trúlyndu Jesú játenda flock, med hans guddóms og endur=lausnar vidurkénningu, hér í hans stridandi kyrkju, svo vér ogsvo mættum, midt í þeirra hóp, eilifliga hønum lofsýngjandi verda, ásamt med øllum hans heilogùm Einglum í hans himneska dýrdarriki. Gud og Fadir Drottins vors Jesú Christí, sem blessadur er ad eilífu, géfi oss øllum þartil nád síns heil. anda, vegna síns sonar Jesú medalgaungu! Veri svo heilog Guddómsins þrieining lofud og vegsømud frá eilífd til eilífdar!

Amen! Amen!

---

## Bæn eptir prédikun.

Framfallandi fyrir þitt auglit, himneski Fadir! þøckum vér þér nú allir saman, af innsta hjartans grunni, allar þínar velgjørdir, ad sønnu ysierhøfud, lík=amligar sem andligar, er þú af nád þinni oss veittar hefur, en þó þøckum vér þér sérilagi fyrir þær andligu sem efla skulu sálir vorar til eilífs lífs. Medal þeirra þøckum vér þér fyrst og fremst fyrir þinn eingétinn son Jesúm Christum, er þú gafst øllu Adams kyni, ecki ad eins til lærimeistara, heldur ogsvo til fridþægara og árnadarmanns. Vér þøckum þér fyrir þinn heilaga anda, sem þú géfur øllum þeim, sem þig um hann bidja, og án hvørs adstodar vér gætum eckért gagn haft af þíns sonar endurlausn, því hann er sá sem uppvekur í oss

ydranina, lifgar í oss trúna, kveikur í oss kjærleikann og adrar kristiligar dygdir.

Vér þockum þér fyrir þitt heil. ord og háverdug Sacrament, sem eru svo sem andlig lífsbjargarmedøl sálna vorra, á þessari vorri lífdagareisu, já sem leidarstjørnur yfir þetta hættufulla veraldarhaf, inntil vors rétta fødurlands. Vér þockum þér fyrir þína trúlyndu þénara, er þú hefur sendt, til ad kalla oss og vísa til þíns sonar ríkis; nefnilega fyrir hans og þína heilogu spámenn og Postula, og adra þá, sem trúliga geingid hafa í þeirra fótspor, med ad útbreida þína dýrd og dygd í heiminum. Vér þockum þér fyrir þad, ad þegar þíns sonar andliga mysteri hér á jordu var ordid og ætladi ad verda rétt sem ad ødru ræníngjabæli, fyrst fyrir hjátrúarinnar yfirgáng á páfadómsins tímum, og þar á eptir af vantrúarinnar voldum, nú á hinni næstlidnu øldu, ad þú þá sendir oss þá menn, sem eptir dæmi þíns sonar Jesú Christi fyrst hreinsudu og sídan hafa leitast vid ad hreinsa aptur þetta mysteri þitt, og útreka þá sem þar inni seldu og keyptu falska lærdóma. Vér þockum þér fyrir allar þær gudligu bækur og rit, sem eptir þessa menn liggja, er med svo miklu hreinlyndi og sannleiks elsku, vísa oss á þann rétta veg til eilífs lífs, sem þín heilaga Meníng svo ótvírædt kénnir. Medal þeirra rita nefnum vér nú sérdeilis á nafn, þá dýrmætu augsburgisku trúarjátníngu, er á sínum tíma løgtekin var fyrir leidarsnúru, til ad finna þann sanna heil. Ritníngar merg og meiníngu, sem sálir vorar eiga ad frædast og fódrast á til eilífs lífs. Vér meigum álíta hana sem adra morgunstjørnu, sem út úr næturmyrkrum hjátrúar og vantrúar bendir oss til sjálfrar Sólarinnar, sem er heiløg

Ritníng, af hverri þíns sonar Jesú Christí guddóms og friðþægíngar geitslar, svo berliga fyrir oss framskína. Vér þöckum þér sömuleidis fyrir tíma nádarinnar; sem þú svo nádarsamliga hefur unnt oss allt til þessa, samt fyrir alla þína þolinmædi vid oss, midt í vorum breisk-leika, og fyrir allar þínar svo vel typtandi sem ladandi uppvakníngar; til ad verka vora sáluhjálp med ugga og ótta.

Enn nú framar þöckum vér þér, heilagi Fadir! fyrir þad þú gésid hefur oss þá konúnga, sem trúliga hafa viljad vidhalda þeim hreina evangeliska sannleika vor á medal, hvarum þetta uppábodna Júbilhátídarhald ber vorum nú ríkjanda konúngi og landsfødur ljósasta vitni. Blessa þessvegna, þú konúngur konúnganna! vorn allranádugasta konúng og Herra, konúng Frederik Sjøtta! Lát hans ríkisstjórn sannfarsæla verda! Blessa þú ogsvo landsins módur, vora allranáduguftu Drottníng! Lát hennar hjarta lagast eptir þínu hjarta! (og s. frv.) Já, blessa yfirhøfud allt þad konúngliga arfahús, med øllum þess limum, af hvørutvéggja kyni, og þad í margar ættkvíslir nidureptir! Æ já, blessa þad med evangel-iskri nádarblessun, fyrir Jesúm Christum! Blessa, ó Gud! þetta ríki, og þetta vort Føðurland! Blessa hvørn stad í ríkinu, hvørt hús í stødunum og hvørja eina sál í húsunum!

Blessa allann þinn Christindóm med blómgun trúar-innar, lifgun vonarinnar, og tendrun kjærleikans! Blessa allann heiminn med útbreidslu Evangelii, svo þitt nádar-ljós upplýsi loksins allar þær þjódir, sem enn-nú í myrkrunum sitja: Gydínga, Tyrkja og Heidíngja, ad þær allar mættu loksins ljósid þeckja, og sídan í því

gánga! Blessa Cathólska, og alla adra medal þeirra, sem christid nafn bera, en á einhvorn hátt villtir eru frá þeirri sann-evangellsku trúar einfeldni, ad þeir í tíma mættu villu sína þeckja, og snúa sér svo á þann hreina og beina veg, sem ósanliga til eilífs lífs liggur! Blessadu vorra kennenda atburdi til eflíngar þeirri sönnu andligu fólksins velferd; valdstjórnarinnar til eflíngar medframmi þeirrar líkamligu, og hússtjórnarinnar í hvorutveggja tilliti!

Bænheyr, himneski Fadir! alla þá sem réttiliga bidja þig um blessun þína! Stór-syndarana, sem bidja um hana sér til umvendunar; veiktrúada, sem bidja um hana sér til þolgædis eflíngar; og þá sem liggja fyrir daudans dyrum, sem um hana bidja sér til sigurs yfir þeim sídarsta óvini! Blessa alla hér innanhúss, en sérílagi þá, sem vid þins sonar kvoldmáltídar medteknngu, halda vilja nú stakliga þacklætis hátíd, þessum sínum Frelsara til æru! Lát hjörtu þeirra full vera af heilögum ásetníngi, til ad vidurkenna hann, sem sinn Gud og Frelsara, fyrir mönnunum med ordum og athöfnum, og fyrir þér med þeirri dýrdkun, sem skédur í anda og sannleika! Já, unn oss öllum, blessadi Fadir! ad halda svoleidis þér til æru, svo vel hátíd þessa, sem allar adrar helgar tídir, ad oss umsídir audnast mætti, ad halda eilífa Júbil-hátíd í þeirri himnesku Jerúsalem, hvar vér uppskéra mættum ávöxtinn af því, ef vér trúliga vidurkennt höfum hér í heimi, þinn son Jesúm: ad vera sannann Gud og eilíft líf; samt allraheldst fyrir það, ef hann sjálfur fær vidurkennt oss, fyrir þínu augliti, ad vera sína sanntrúada og útvalda tilbidjendur og dýrdkara!

Bænheyr nú, ó Gud! einn í þrenníngu og þrennur í einíngu, allar þessar vorar og vorra nálægra og fjarlægra christinna medbrædra, hjartans óskir, og uppfyll þær á besta hátt, eptir þínum dýrdar ríkdómi í Christó Jesú! Amen! í hans nafni Amen!

---

☞ Evangelisk Smárit frá byrjun Nr. 58, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi géfins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þaug edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim sem þeir færa þaug, ef vilja.

Kaupmannahöfn 1845. Prentad hjá S. L. Møller.